# FORMÁLI.

*Valla-Ljóts saga er nú einungis til í pappírshandritum. In elztu þeirra eru frá miðri 17. öld. Handritin eru allmörg, en þeim ber lítt á milli, svo að auðsætt er, að þau eiga öll rót sína að rekja til einnar frumbókar. Virðist sagan hafa varðveitzt óbrjáluð, svo sem hún hefir verið í öndverðu, þótt einstök orð eða setningar sé sums staðar eitthvað úr skorðum gengnar. —*

*Sagan hefir verið gefin út áðr þrysvar á vora tungu. Fyrsta sinni kom hún út í öðru bindi af Íslendingasögum í Khöfn 1830 og bjuggu þeir undir prentun: Þorsteinn Helgason, síðar prófastr í Reykjaholti og Þorgeir Guðmundsson, er prestr varð í Glólundi. — Síðan gaf Bókmentafélagið söguna út í öðru bindi af Íslenzkum fornsögum, Kh. 1881. Dr. Finnr Jónsson bjó söguna undir prentun. Þar er lagt til grundvallar handrit sögunnar í „Útskálabók“ svo nefndri í safni Árna Magnússonar, nr. 158 fol., en orðamunr tíndr úr ýmsum öðrum handritum. Bók þessi er skráð mörgum fornsögum og er úr safni Þorsteins prests Björnssonar á Útskálum (f. c. 1612, d. 1675) og hefir hann sjálfr ritað sumt í henni. Þorsteinn prestr lagði mikla stund á forn fræði, og safnaði*

*þeim, reit sjálfr og lét aðra rita. Handrit hans komust síðar í eigu Sigurðar lögmanns Björnssonar og þaðan í hendr Árna Magnússonar.*

*Þriðja sinni er sagan gefin út í safni Sigurðar bóksala Kristjánssonar, Rvík 1898. Valdemar Ásmundarson bjó undir prentun. Er þar farið eftir útgáfu Bókmentafélagsins.*

*Hér er sagan einnig prentuð eftir útgáfu dr. F. J., óbreytt að öðru en stafsetning og einstaka lagfœringum samkvæmt orðamun handritanna, sem þar er greindr neðanmáls.*

*Valla-Ljóts saga tekr við af Svarfdœla sögu að því er til tíma og frásagna kemr og er því nokkurs konar framhald þeirrar sögu. Þó verðr þar að miða við eldri gerð Svarfdœla sögu, en þá, sem nú er til. — Saga Valla-Ljóts er skrásett á svipuðum tíma, sem aðrar sögur þar í héraði, inar eldri, Ljósvetninga saga og Víga-Glúms saga, og fellr vel við þær. Sagan er ekki tilþrifamikil, en virðist skrumlaus og sannsöguleg.*

*Um tímatal er farið eftir dr. Guðbrandi Vigfússyni.*

*Sagan kom út í þýzkri þýðing eftir Wilhelm Ranisch í sögusafninu „Thule“ (XI. bindi), Jena 1921.*

9. júní 1924.

BENEDIKT SVEINSSON.

---

## TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Dauði Sigmundar Karlssonar ins rauða. Víg Torfa í Torfufelli. Utanför Böðvars. Halli reisir bú ..................... um | 980—985 |
| Víg Halla ...................... | 1007 |
| Vígsmál Halla á Alþingi. Útkoma Böðvars ok Bersa Hallasonar | 1008 |
| Víg Böðvars ok Bersa .......... | 1009 |
| Atför at Ljóti. Sætt á Alþingi .... | 1010 |
| Valla-Ljótr deyr .......... fyrir | 1030 |



# Valla-Ljóts saga.

---

1. Sigmundr hét maðr. Hann var sonr Karls ens rauða. Hann átti dóttur Ingjalds í Gnúpafelli. Hann átti þrjá sonu, ok hét Hrólfr enn ellsti, Halli annarr, en Böðvarr þriði. Þeir váru miklir menn ok sterklegir. Hrólfr var uppivöðslumaðr mikill ok fégefinn. Halli var gleðimaðr mikill ok lögmaðr, ok hávaðamaðr enn mesti. Böðvarr var góðlyndr, ok gerðisk farmaðr.

Torfi hét maðr, er bjó í Torfufelli, auðigr, en ekki ættstórr. Þá bjó Eyjólfr á Möðruvöllum ok Guðmundr enn ríki var með honum, sonr hans.

Sigmundr tók sótt, ok kallaði saman sonu sína, ok bað þá vera samhuga, ok kvaðsk hann sjá mega hvers þeira skaplyndi, — „ok meguð nú at hyggja, ok verið eigi til síngjarnir, ok gæti hverr sinnar sœmdar.“ Síð-

an andaðisk hann. Þá var Hrólfr átján vetra, Halli fjórtán vetra, Böðvarr tólf vetra.

Kona Torfa andaðisk. Hann var vel til sona Sigmundar. Hann fór þangat eitt sinn ok kallaði þá á tal. Torfi mælti: „Nú hafa lengi kunnleikar á millum vár verit, ok enn vil ek þá auka minna vegna. Nú mun ek mæla til við móður yðra ok biðja hennar. Mætti oss þat verða frami hvárumtveggjum; en þótt mannamunr sé, þá kann þar fyrir at koma fé ok umsýslan. Hrólfr bað hann tala við móður sína um þetta mál. Hann gerir svá. Hon gefr þat svar: „Þetta ráð vil ek undir sonum mínum eiga, en ekki við einræði mitt.“ Torfi mælti: „Hvat sýnisk þér, Halli?“ Hann svarar: „Þetta mál kemr meir til Hrólfs, því at hann er ellstr vár brœðra, ok kann forsjá fyrir at hafa.“ Torfi vekr við Hrólf ok Halla ok þá alla saman; en þeir Hrólfr ok Böðvarr kváðu eigi óvænt stefnt, ok sögðusk eigi mundu af svara um samfarar þeira. Þá mælti Halli: „Bíða vilda ek ykkarra orða, ok var mér slíks at ván, ok má ek eigi sjá, hvat í því er ráðlegt, ok mjök horfir til lítilla mannvirðinga. Slíkr maðr er ósýnn til fullræða. Vil ek ekki samþykki þar til gefa, at gefa móður mína göfga lausingjanum eftir göfugt gjaforð.“ En Hrólfr kvaðsk ekki svá sýnask. En hon kvaðk mundu hafa

hans forsjá, — „ok samþykki ek þessi ráð.“ En Hrólfr kvaðsk ráða eiga. Halli kvað þat mundu fram ganga, sem hon vildi. Var brullaup ákveðit at vetrnóttum. Nú líða stundir, ok þess er getit einn dag, at konur váru í dyngju sinni, ok Halli var þar kominn. Móðir hans mælti: „Ek á at greiða málagjöld í dag griðkonum várum. Nú vil ek senda þik í Torfufell, ok seg, at Torfi sendi mér grís nökkurn, ok þyrfti þó, at þú værir eigi ofskapbráðr, því at grissinn mun vera illr með at fara, — ok mun hann frammi láta, ef mín orð koma til.“ „Fara mun ek, því at þú átt þér þar hollan vin,“ — ok er Halli kom þar, var Torfi at vinnu, ok leit eigi til hans, ok mælti þó: „Þat má ek gera; taktu hann sjálfr, ok starfa at honum.“ Halli mælti: „Eigi er þat formannlegt, at ganga í saur at gyltu gamalli, ókunnum mönnum.“ Torfi mælti: „Hvat mælir ofrhuginn?“ „Svá mun ek ekki hætta til býsnanna,“ segir Halli, „ok send þangat hvern er þú vill.“ Torfi mælti: „Eigi ætla ek þik þykkjask jafnsnjallan gyltunni.“ Halli segir: „Betra væri þetta ómælt. Ekki jafna ek snilli okkarri gyltu saman, ok má þetta frýjuorð kallask.“ Hann hljóp at durunum ok snaraði inn, ok þegar hjó hann af henni ranann, tók grísinn ok gekk út. Torfi mælti: „Hafðu nú yfir þangat grísinn,

ok fœr henni.“ Hann svarar engu, ok ríðr brott ok heim á leið. En skógr var um heraðit. Hann steig nú af baki hestinum, ok bitr hann þar í skóginum, ok sitr Halli þar, þar til er hann sá mann ríða í blári kápu yfir ána, ok þar kennir hann Torfa. Hleypr upp ok höggr hann banahögg. Hann hafði bæði spjót ok sverð. Halli kastar honum þar undir bakka ok huldi hræ hans, en hafði hestinn með sér. Hann kom heim ok hitti móður sína. Hon spyrr um erendi hans, en hann segir, hvar máli er komit, at Torfi myndi eigi koma í rekkju hennar, ok enn síðr senda henni grísinn, — „sem ek skilda við hann. Er rennt þeim ráðahag, þó at yðr þykki þat eigi líklegt.“ Hon segir: „Þat hygg ek, at oft réttir þú hendr þínar til ills, ok mun þetta upphaf ógiftu þinnar, ok muntu annathvárt gerr sekr eða drepinn, slíkir menn, sem hér eigu eftirmæli, sem Eyjólfr er.“ Halli segir: „Eigi þarftu at ámæla mér svá fast um þetta verk, því at lítill var mannskaði í honum, þótt þér þœtti hann góðr.“ Hon kvað þat nær hófi, — „en betra væri þér óunnit verkit.“ — Síðan fór hann í Gnúpafell til Ingjalds frænda síns, ok segir honum tíðendin. Hann segir: „Farðu á fund Svarfdœla, vina þinna ok frænda; eða hvat gaftu honum at sök?“ segir Ingjaldr. „Orð hans óviðrkvæmileg til mín fyrir þat,

at ek vilda ekki gifta honum móður mína, ok svívirða svá ætt vára. Nú veit ek eigi, nema mér verði nær stýrt um eftirmálit, ok ek myna fara óvarlega, en ósnjallara kvað hann mik en gyltuna.“ Þá segir Ingjaldr: „Þat var illa mælt, ok ver með oss, þar til er lokit er málum þínum.“ — Þá bjó Víga-Glúmr at Þverá, ok hittusk þeir frændr. Þeir fóru á fund Eyjólfs, ok bjóða honum sátt fyrir þingmann sinn, — „vér viljum virða þik til þess, ok bœta hann hundraði silfrs, en falli niðr gagnsakar við Torfa fyrir áþéttisorð við Halla, ok er ósýnt, at meira fáisk af oss frændum, ok látum oss ekki þetta verða at misþykki.“ Eyjólfr svarar: „Svá skal vera. Oss er Halli skyldr, enda er hann ættstórr.“ Sættusk þeir at því. Var Halli sjautján vetra, er fé þeira var skift.

2. Böðvarr réðsk í kaupferðir, en Hrólfr gipr sitr heima í föðurleifð sinni. Böðvarr var utan langa hríð, ok var enn nýtasti fardrengr ok vinsæll. Hann var utan tólf vetr. Halli setti bú saman ok átti Signýju Bersadóttur, frændkonu þeira Möðrvellinga, ok gerðisk þá vel með þeim Eyjólfi ok Halla. — Halli kvað þat vænst til þeira vinfengis, at tengdir tœkisk. Eyjólfr kvað hann rétt sét hafa. — Halli fór mjök með sakar. — Litlu síðar druknaði Eyjólfr í Gnúpufellsá. Hann

var jarðaðr í túnvellinum heima á Möðruvöllum, ok var prímsigndr áðr. Síðan tók Guðmundr enn ríki, sonr hans, við virðingu, ok gerðisk vel með þeim Guðmundi ok Halla. Veitti Guðmundr honum með fjölmenni, en Halli var grjótpáll fyrir málum hans, ok var hann kallaðr Hreðu-Halli, ok hefir hann mesta virðing haft af Guðmundi. Þá var hann á fertugs aldri, er hér var komit sögunni, ok var eigi auðsóttr með afla Guðmundar, en framkvæmd sinni. Bersi hét sonr Halla. — Hrólfr var maðr auðigr ok grályndr. Þess er getit, at Guðmundr hélt boð fjölment einu sinni á Möðruvöllum, ok var Halli þar, sem at hverju boði öðru, sem Guðmundr helt. Þar var mjök margt talat. Þá mælti Halli eitt sinn at boðinu: „Mjök undarlega ferr fram höfðingsskapr hér á Íslandi, ok þverr nú mjök mannvalit norðr hingat, þó helzt í herað þetta.“ Guðmundr segir: „Oft finsk þat á, at ek em virðingargjarn. Eigi mynda ek annars staðar heldr höfðingi vera í heraði, en hér.“ Halli segir: „Satt er þat, Guðmundr; en eru þau heruð, er eigi þykkir langt í milli vera, þó at mannvalit sé hér meira.“ Guðmundr spyrr: „Hvat er þat?“ Hann segir: „Þat er Svarfaðardalr.“ Guðmundr mælti: „Fleira muntu mæla sannara ok snotrlegra. Er þar snæsamt ok liggr á vetrarnauð mik-

il.“ Halli segir: „Hinn veg verðr þó lengstum í útdölunum slíkum, at fleiri fara þangat at kaupa mat, en þaðan ok hingat, ok fleiri nœrask þaðan á penningum en heðan.“ Guðmundr mælti: „Hvat er þetta at tala, at landkostir eru svá lofaðir, ok eigi sýnisk mér svá.“ Halli segir: „Þat hefir mér í hug komit, at breyta mínum ráðahag, ok fœra þangat bygð mína í ættleifð vára.“ Guðmundr mælti: „Hví er þér þar betra at búa, en hér?“ Halli mælti: „Þar hafa verit göfgir frændr mínir, enda fýsir mik þangat at fara, heldr en sitja samkynnis við þik, því at mér hagar þat til lítilla vinsælda,“ segir Halli, „ok em ek grjótpáll þinn, ok verða mér sumir ofjarlar hér í heraðinu, ok mun þat þá niðr falla, ef ek fer heðan, ok skal þó vera okkart vinfengi samt ok áðr. En ek mæli þat nú berlega, at ek fekk óvinsældir af viðskiftum ykkrum Einars bróður þíns, ok vil ek nú fœra mér þat af hendi.“ Guðmundr svarar: „Þetta er sumt satt, en sumt ætla ek þér minna til óvirðingar en óvinsældar.“ Halli svarar: „Hitt er eigi miðr reyndar, at þeir frændr mínir, synir Ingjalds, eru yfirmenn mínir, ok eigi má ek hér mestr maðr verða várra frænda, meðan vér erum hér allir, en þar má ek mestr maðr verða.“ Guðmundr mælti: „Eigi ætla ek, at þú munir fá þar meiri virð-

ing en slíka, sem þú hefir hér borit; ek sé þar fjóra menn, at engi þeira vill láta virðing sína fyrir þér.“ Halli svarar: „Hverir eru þeir fjórir, er í móti mér munu stríða?“ Guðmundr mælti: „Þat er einn Valla-Ljótr, sonr Álfs goða, er mestr maðr er í dalnum, ok Þorgrímr bróðir hans; enn þriði er Björn á Karlsá; enn fjórði er Þorvarðr bróðir hans; þeir eru Þorgríms synir, kynstórir menn. Ætla ek svá um Þóri frænda þinn, at þótt þú fœrisk nær honum, þykki mér þér ofrefli við þá at eiga.“ Halli svarar: „Þat ætla ek þó muni fram fara.“ — Síðan fór hann á fund Þóris Vémundarsonar, ok sagði honum sitt erendi, ok vildi land kaupa, ok spyrr hann at, hvar landit muni falt. Þórir segir: „Veit ek land falt á Klaufabrekku, ok mun ek fá þér engjar til, því at þar eru engi lítil. En ek vil kaupa þat land til handa þér, ef þú vill hingat ráðask; en þó þykki mér þat ráðlegast, at þú sér kyrr. Hér mun at reyna fastnæma menn ok stórúðga.“ Halli kvað þat mundu sik ekki í brott reka, — „ok kauptu þá landit.“ Síðan réðsk hann þangat. Ekki var bygðarleyfis leitat. Þeir láta sér lítit eða ekki um finnask, Svarfdœlar, því at Ljótr var höfðingi yfir þeim frændum; ok undu þeir frændr vel við þat, enda réð hann einn öllu þeira í milli. Hann var óhlutdeilinn, umsýslumaðr, engi

stúrumaðr, mikill maðr; þat var til marks, hversu honum þótti við menn ok líkaði: hann átti tvennan búnað, blán kyrtil stuttan ok öx snaghyrnda, ok var vafit járni skaftit, þá var hann svá búinn, er vígahugr var á honum, en þá er honum líkaði vel, hafði hann brúnan kyrtil, ok bryntröll rekit í hendi.

3. Hrólfr hét bóndi, er bjó upp frá Klaufabrekku. Hans synir váru þeir Þórðr ok Þorvaldr. Hann var göfigr maðr. Hann tók sótt ok andaðisk. Þeir brœðr tóku erfð eftir föður sinn ok vildu, at Ljótr skifti með þeim bæði löndum ok lausum aurum, þeim er þeir áttu. För Ljóts frestaðisk um nökkura stund, en kristnat var landit fyrir litlu, ok váru lögleiddir dróttinsdagar. Þá var Mikjálsmessa, er fundrinn var lagðr. Váru þeir þar komnir, Þórir ok Halli, ok höfðu þeir sét mannaförina. Ljótr skifti löndum þeira brœðra; snær var fallinn á landamerkin. Hann skifti löndum, ok tekr sjónhending í stein nökkurn, en ór steininum ok í ána, ok ferr svá rétt fram, ok nam staðar við ána, ok skar þar upp torfu eða jarðkross, ok mælti: „Svá kann ek at gera landaskifti.“ Þeim brœðrum líkaði þetta vel, ok svá öllum, nema Halla. Þá mælti Ljótr: „Vit höfum ekki við átzk hér, Halli, en þú ert maðr hygginn, eða hversu lítsk þér þetta skifti?“ Halli svarar: „Vel at jafnaði ætla ek

þik löndum skift hafa. En er þú mælir til þessa, ætla ek, at lögin muni sveigð hafa verit; má ek svá heldr um rœða landaskiftit, eða hversu lögkœnn maðr ertu, Ljótr?“ Hann svarar: „Eigi em ek lögklókr.“ Halli segir: „Þat ætla ek við lög varða, at vinna á Mikjálsmessu, þótt hon væri eigi á dróttinsdegi, ok mun ek stefna þér um helgibrigði.“ Ljótr mælti: „Ung' er ný trúan.“ Halli mælti: „Svá er at kveðit, at kristnispjöll sé í orðin, ok er eigi vel sét fyrir enum smærum mönnum, er þér gerið svá fyrir, höfðingjarnir.“ Ljótr svarar, ok segir þetta eigi vel gert, — „ok mun eigi svá verða í annat sinn.“ Halli mælti: „Skjót eru ummæli mín við þik, Ljótr, ger annathvárt, gjald mér hálft hundrað silfrs, eða ek mun stefna þér.“ Ljótr svarar: „Þat mun ráðlegra, at sé orðalaust við mik, ok bœta ek eigi fyrir vanhyggju mína, en þykkja bezt, at kyrt sé, en ek mun styðja mál þín.“ Halli svarar: „Ekki sómir at fella á sik reiði engilsins, ok láta þetta niðr falla hegningarlaust.“ Ljótr svarar: „Þú skalt eiga heimila hegning, ef oftar verðr, en legg nú samþykki við mik, ok náir þú þá þökk minni.“ Halli svarar: „Þat skal annat vera, ok ger þú annathvárt, gjald upp fét eða ek mun stefna þér.“ Ljótr svarar: „Eigi vil ek, at þú stefnir mér; heldr vil ek gjalda fét, ok

mun vingott í móti koma. Lengi hafa várir frændr við hnipzk," segir Ljótr, „vera má, at í kyn kippi. Mun ek þegar gjalda fét, því at eigi vil ek reiði engilsins. Nú ef þér gengr til vinátta við mik, sem ek ætla heldr, þá má enn vera, at sjálft sýni sik." Halli tók við fénu. Ok á sama hausti var boð á Möðruvöllum, ok kom Halli þar. Þá var Bersi, sonr hans, út kominn, ok var at boðinu. Guðmundr setti Halla et næsta sér, ok hafði haft frétt af viðskiftum þeira Halla ok Ljóts, ok mælti svá: „Hversu líkar þér í dalnum út?" Halli kvað sér vel líka. Guðmundr mælti: „Eru menn vel við þik út þar?" — en hann kvað þat með góðum hætti. „Þat er sagt," sagði Guðmundr, „at þú hafir fé upp tekit af Ljóti fyrir litla sök." Halli segir: „Eigi er þetta vel hermt, ek leitaða eftir með réttindum, ok kaus hann þann, er honum gegndi betr, ok máttu hér sjá silfrit." „Já," segir Guðmundr, „sé ek, at þú þykkisk vel leikit hafa, en svá segir mér hugr um, at rautt mun sjá í skörina fyrir enar þriðju vetrnætr. Vil ek þat nú ráða þér, at þú komir eigi út þangat; síðan mun ek kaupa þér hér land, en hætta þér eigi út þangat." Halli mælti: „Vel er þetta boðit, en vera þykkir mér á þeir brestir eftir, at ek vil þat eigi, ok mun ek reyna enn meir, ok fer ek eigi af þeim sökum enn brott." Síðan

fór Halli brott, er lokit var veizlunni, ok Bersi sonr hans með honum, ok fóru þeir út at jólum í dalinn. Þórir bauð Halla til jólaveizlu at Grund, — þar var kirkjubœr, — en Bersi sonr hans fór heim. Þórir mælti, ok lét fara andvirki, því at heyfátt var heima um jólin, er á leið. Þau ein orð fóru til eyrna Valla-Ljóti um skifti þeira, er heldr váru óvingjarnleg. En eftir jólin bjósk Halli brott, ok þann morgin hittusk sauðamenn af Grund ok Völlum; spurðusk tíðenda ok rœddu um, hvárir betr myndi veitt hafa um jólin, ok fylgdi hvárr sínum bónda. Sagði Þóris maðr eigi þar jafnvel skemt hafa verit, — „því at engi er skemtunarmaðr betri en Halli, er þar var um jólin.“ Valla sauðamaðr spurði, nær Halli myndi heim fara. Húskarl Þóris kvað hann affaradag jólanna fara mundu. Þórir spurði húskarl, er hann kom heim, hvat hann hefði manna fundit; en hann sagði honum. Þórir frétti, hvat þeir hefði haft at tala. En sauðamaðr sagði allt sem farit hafði. „Já,“ sagði Þórir, „vel er sagt, ok skalt þú, Halli, hvergi fara í dag,“ — ok segir honum, hvat til bar, ok svá, hvat þeir höfðu rœtt, húskarlarnir, — „er mér ekki um, at þeir segi um ferðir þínar, sem verða kunna; er ok mér þar grunr á, at svá fari, sem Guðmundr sagði, at Ljótr myndi verða þér

drjúgr í málunum.“ Halli svarar: „Hvat er okkar Ljóts í milli, nema gott?“ Þórir mælti: „Skuggi er honum í málum ykkurum.“ „Nú skal ek fara,“ kvað Halli. Þórir svarar: „Þá skulu þér fylgja húskarlar mínir þrettán, en mér er þungt, ok má ek því ekki fara.“ Halli kvað þess eigi þurfa mundu. Síðan fóru þeir upp um Hörðabrekku. Þá mælti Halli: „Farið nú aftr, því at nú á ek skamt heim, ok munu mér engir fyrir sitja.“ Þeir gerðu sem Halli mælti. Sauðahús Halla váru á götunni. Þá mælti förunautr Halla: „Menn eru þar,“ sagði hann. Halli svarar: „Má vera, at þat sé Bersi sonr minn.“ Hann svarar: „Þat eru ekki várir menn; — þeir eru tólf saman, ok einn í blám kyrtli, ok hefir öx snaghyrnda í hendi.“ „Far þú heim ok seg Bersa, at Ljótr þykkisk eiga smá erendi við mik, ok er engi þörf þín hér at vera.“ Hann tók þegar á rás mikilli. Halli var gyrðr í brœkr ok hafði skikkju yfir sér. Hann kastaði henni af sér. Hann hafði hjálm á höfði ok broddstöng í hendi, en gyrðr sverði, ok gengr í móti þeim, ok fram hjá. Þá mælti Ljótr: „Dveljum eigi atgöngu ok tökum hann.“ Þeir ráða at honum, en hann gengr snúðigt, ok komsk fram hjá, er hann fór forbrekt, ok fá þeir ekki við hann fest, er hann gengr við brekkunni. Síðan nam hann staðar á sléttu nökkurri. Þá

mælti Ljótr: „Nú hœlisk hann um við oss, er hann stendr hæra en vér.“ Halli svarar: „Ek mun njóta frœknleiks míns ok fráleika ok bíða eigi.“ Ljótr mælti: „Bíða myndi Karl, afi þinn, ok aldri lét hann eltask sem geit.“ Halli mælti: „Staðar skal ek nema, ok berjumsk vit tveir; er þat sómi þinn, en hitt skömm.“ Ljótr svarar: „Eigi er á þat at líta, enda skal ok svá vera.“ Halli mælti: „Hvat gefr þú mér at sök?“ Ljótr mælti: „Sú er sökin, er þú skalt eigi oftar kenna mér helgihaldit. Nú ef þér hefir gott til gengit, ok vill engillinn gefa þér sigr, þá muntu njóta þess; en ef þat var með fégirnd ok ágang, þá hafðu minna hlut, ok sjái hann mál okkart, ok muntu þá allvel njóta þess hálfs hundraðs silfrs, er þú tókt af mér, ok haldit síðan.“ Ljótr gekk at honum með járnaðan skjöld. Halli lagði til Ljóts í skjöldinn, ok kom í bóluna svá hart, at sverðit festi. Ljótr snaraði þá skjöldinn svá fast, at sverðit brast í tanganum, en síðan hjó Ljótr Halla banahögg. Þeir fœra hann til sauðahúss, ok kómu heim á bœinn, ok segja tíðendin, ok lýsti Ljótr vígi Halla á hendr sér. Bersi fór þegar á fund Guðmundar, ok sagði honum þessi tíðendi. Hann kvað þat farit hafa eftir getu sinni. Bersi bað hann þá taka við málinu, — „en ek vil fara utan.“

Þá váru af tekin hólmgöngulög öll ok hólmgöngur.

4. Guðmundr tók við málinu, ok býsk til alþingis, ok fjölmenti mjök. Þá var leitat um sættir af vinum Ljóts. Hann var fjölmennr ok hafði traust margra höfðingja. En svá lauk því máli með styrk ok fylgi vina ok frænda Ljóts, at hundrað silfrs var goldit fyrir víg Halla, en þat hálft hundrað silfrs, sem Ljótr galt Halla, þar kom ekki fyrir, því at Ljótr vildi, at þat kœmi fyrir vanhyggju sína; en vinir hans báðu, at hann tœki þat hálft hundrað undir sér, ok vildi hann þat með engu móti; ok sagði þat lítit fyrir hólmgönguboð Halla. Guðmundr undi illa við málalyktan, en varðveitti fét til handa frændum Halla.

Skip kom út um sumarit í Eyjafirði, ok var þar kaupstefna mikil. Þeir sóttu út þangat Þorgrímssynir ór Svarfaðardal, systursynir Ljóts ok húskarlar hans, ok tóku sér varning. Þar var sá maðr, er Sigmundr hét. Þeir dalbyggjarnir váru sofnaðir í dalverpi einu. En í lýsingina kom at þeim maðr ok mælti: „Vituð ér, at Eyfirðingar eru öðrum megin óssins, ok fór ek at segja yðr, at ér varizk þá, því at þeir eru ekki trúlegir, ok gaktu út, Þorvarðr, ok tölumsk við,“ sagði sá. Þorvarðr svarar: „Ekki þarf ek viðrtals yðvars

nökkurs, því at mér þykkir þú ótrúlegr." Þorvarðr gengr þó út með honum á hólinn ór tjaldinu, ok töluðusk við. Þá kómu at honum níu menn svartklæddir. Þorvarðr vildi þá aftr snúa, en sá, sem hann hafði teygðan með sér, kipti honum í ferð með sér ok flokk hinna. Þeir báru vápn á hann þegar, ok vágu hann þar. Sigmundr vildi hefna hans, ok var honum haldit. Þat verk gerði Hrólfr gípr með svikum. En er Guðmundr hitti Hrólf, kvað hann hann illa gert hafa, at ganga á sættir manna. Sagði þat illu reifa mundu. Hrólfr kvaðsk ekki at sættum staddr hafa verit. En Ljótr tók eftirmál um vígit Þorvarðs frænda síns. Guðmundr sendir orð Ljóti, at hann vill sættask við hann, — „ok vilda ek, at þú hefðir hér fulla sœmd fyrir," — ok sagði sér þetta verk heldr mislíka, ok lét svá bezt fara mundu heraðsstjórn, er þeir stilti menn at illvirkjum slíkum. Á þingi koma til vinir beggja þeira, ok var þá um sættir leitat, ok var til þess nefndr Skafti Þóroddsson, vinr Ljóts, með umleitunum margra annarra. Ljótr kvaðsk eigi einn vera mundu þverlyndr í slíku, en sagði þó slík verk illa upp hefjask, ok kvað mörgum minna þykkja fyrir at gera slíkt í fyrstu; kvað enn mega sýnask fyrr ágang annarra við sik, en mótgerðir sínar við aðra. Þorvarðr var bœttr

tveim hundruðum silfrs. Hrólfr undi betr við upp frá því, ok lifði hann tvá vetr síðan.

5. Skip kom út um sumarit; var þar á Böðvarr Sigmundarson ok Bersi Hallason. Þeir hitta skjótt Guðmund. Hann sagði þeim, hvat í hafði gerzk ok hvar komit var mál manna. Böðvarr var hófsamr ok stiltr vel, ok sagði sér vel líka forsjá Guðmundar, en sagði sér leitt allt sundrþykki manna í heraðinu, ok kvaðsk enn mundu utan fara ok vera eigi við riðinn. Ok um vetrinn, er Guðmundr var eigi heima, kómu menn utan ór Óláfsfirði frá Kvíabekk til kaupa. Sá hét Ásmundr, er fyrir þeim var, ok keypti til sex hundraða, ok kvaðsk allt mundu út gjalda. Böðvarr sagði, at hann vildi, at Guðmundr sæi honum til handa skuldastaði. Ásmundr mælti: „Kunnigt mun þat mönnum, at vér gjöldum skuldir várar.“ Böðvarr svarar: „Þá vil ek, at þú fœrir hingat fét,“ en Ásmundr kvaðsk vilja, at hann tœki út þar vöruna, ok lýkr svá, at þeir kaupa þessu, en síðan fara þeir á brott. En Guðmundr kom heim. Þeir sögðu honum kaup sín. Hann svarar: „Eigi skyldi þessi kaup verit hafa, ef ek hefða heima verit.“ — Nú líða jólin, ok er veðrátta góð. Þá bað Böðvarr þá Bersa at fara at heimta vöruna, en Guðmundr kvað þat óráðlegt, at ganga í greipr þeim Svarf-

dœlum, — „ok ætla ek þó, at eigi veiti Ljótr þér ágang." Fóru þeir þó, fjórir saman. Ok er þeir kómu út í Óláfsfjörð, var varan eigi búin, því at margir höfðu keypt, en hann var einn í bundinn skyldunni við Böðvar. Þeir höfðu haft ferju út þangat, er austmenn áttu, ok er dvölin var löng, þá rak á frost mikit, svá at eigi mátti á skipinu fara. Ásmundr kvað þeim heimilt at vera þar. Böðvarr kvaðsk þat mundu þekkjask, ok váru þeir þar hálfan mánað hríðfastir; síðan gerir þurrafrost ok fœrðir góðar, ok leggr fjörðinn, svá at eigi mátti á skipum fara. Þá mælti Ásmundr: „Verið kátir ok vel komnir með oss, Böðvarr." En hann kvað þat vel boðit, — „ok fá oss heldr leiðtoga, ok munum vér þá ganga." Ásmundr kvað þat síðr sitt ráð, — „ok vilda ek skiljask vel við yðr." „Svá verðr at vera," segir Böðvarr. Þeir fóru tólf saman þar til skiftask vegir heiðarinnar. Þá þyknaði veðrit ok dreif. Fœrðin var þung, en Böðvarr var ófrár, ok óvanr göngu, ok ætluðu til Svarfaðardals um nóttina til Narfa. Veðrit gerðisk myrkt, ok vissu þeir ógerla, hvar þeir fóru. Þá mælti Böðvarr: „Villizk ér nú vegarins, en náttmyrkrit við sik." Þeir léttu eigi fyrr en þeir drápu fótum í húsum nökkurum í náttmyrkrinu. Þeir drápu þar á dyrr, en menn sátu þá við elda. Þá er gengit til dura

ok spurt, hverir komnir væri. Böðvarr sagði: „Hverr býr hér, eða hvat heitir bœr þessi?“ „Þorgrímr býr hér Ljótólfsson, en bœrinn heitir at Upsum, ok vill bóndi, at ér gangið inn, því at eigi er úti vært. Bauð hann mér svá at segja, hverr sem úti væri.“ Böðvarr svarar: „Eigi vilju vér fyrr inn ganga, en bóndi býðr sjálfr.“ Maðrinn gengr inn ok segir, at þeir menn sé úti komnir, sem af honum vilja boð þiggja, — „ok láta mikillega.“ Þorgrímr gengr út ok spyrr, hverir komnir væri, — „ok þiggið hér at vera í nótt.“ Böðvarr svarar, ok kvað suma vera íslenzka, en suma norrœna, ok nefnir sjálfan sik. Þorgrímr gekk inn fyrir, ok bað þá niðr setjask ok þiggja beina, — „ok skal ekki boði aftra,“ en kvað aðra eigi síðr aufúsugesti þar vera, ok annarra eigi minni ván verit hafa. Þorgrímr lét gera þeim elda. Sigmundr var ok þar at búi, er nefndr var fyrr, fóstbróðir sona Þorgerðar Ljótólfsdóttur. Honum bregðr mjök við, ok segir Þorgrími leynilega frá skilnaði þeira Þorvarðs frænda hans. Þorgrímr kvað þat mál ekki til sín taka, — „ok vil ek þeim vel veita, sem einskis eru ills af mér verðir, ok vil ek, at menn sé þeim trúir, sem mik hafa heim sóttan.“ Þar eru þeir um nóttina. Þorgrímr býr um hurðina, ok bað engan mann fyrr hurð-

inni upp lúka, en hann vildi, — „en sá skal hörðu mœta, sem af bregðr.“ Sigmundr leitaði eigi at, fyrr en þeir sváfu fast. Innangengt var í fjósit, ok svá kemsk hann í brott. Þá var rofit veðrit ok komit jarðfjúk. Hann fekk sér skip, ok kom um nóttina til Karlsár til Bjarnar, ok vakti hann af svefni. Hann spyrr, hverr kominn væri. Hann segir til sín. Björn spyrr, hví hann fari svá óðlega. Hann kvað nauðsyn til reka, — „ok munt þú nú mega hefna bróður þíns.“ „Hverir eru komnir?“ segir Björn. Sigmundr svarar: „Böðvarr, bróðir Halla, ok ætlar nú inn til Eyjafjarðar.“ Björn svarar: „Ekki sómir vel at kveykja ófrið at gervum sættum, ok sá maðr er saklauss, ok aldri verit riðinn við nein skifti manna hér á landi. Væri nær miklu, ef Hrólfr væri, ok sómdi þó eigi vel. Kann ek ok kappi Þorgríms frænda, at honum mun þykkja svívirðing í um gesti sína, ef at þeim er illa farit.“ Sigmundr svarar: „Eigi skiftir þat (litlu) at högum til, er þeir váru af teknir, er skaðinn er at, en mannlæður slíkar lifa, sem þú ert, ok má oss hugkvæmt þykkja, þá er bróðir þinn var drepinn í griðum fyrir oss, ok nú viltu eigi hefna hans.“ Hann reis upp; fær sér menn ok verða átta saman. Björn kvaðsk hitta vilja Ljót frænda sinn. Fóru þeir á Völlu. Ljótr spyrr, hvat Björn vili, er

hann fór um nætr. Björn svarar: „Ek ætla nú at fara ok hefna Þorvarðs frænda míns.“ Ljótr mælti: „Er Hrólfr kominn?“ „Eigi er þat,“ segir Björn, „hér er kominn Böðvarr bróðir hans í dalinn.“ Ljótr mælti: „Eru þetta þín ráð, frændi, at drepa saklausan mann ok ganga á sættir? Ok fer ek eigi þessa ferð, ok leggja virðing við þat at sœkja heim bróður minn.“ Þeir mæltu: „Eigi munu vér þurfa at sœkja heim bróður þinn, til þess at ná þeim. Sitjum nú fyrir þeim, er þeir fara í brott.“ Sigmundr segir: „Vér munum sjá för þeira.“ Ljótr kvaðsk eigi mundu fara. Þeir fóru í brott. Ok er þeir fóru, þá mælti Sigmundr: „Komim vér til Tjarnar, til þeira feðga, Þorsteins ok Eyjólfs.“ — Þeir váru harðir menn ok ofrhugar. Björn mælti til Þorsteins: „Liðs vil ek biðja þik, at eigi fari óvinir várir um þveran dalinn í friði.“ Hann kvað þat einsætt, ok réðsk til ferðar með þeim. En Eyjólfr sonr hans var farinn upp í Sauðadal. — Nú er at segja frá Böðvari, at hann býsk um morgininn ok hans förunautar. Þorgrímr mælti: „Ekki er mér um, Böðvarr, at þú farir almanna leið. Ek veit gerla, at maðr hefir brott farit héðan í nótt, ok mun sagt hafa um ferðir þínar, en ek vilda, at ekki yrði at yðr, er þér hafið mik heim sóttan.“ Böðvarr kvað honum vel fara. „Ek

man ok svá gera.“ Þeir snúa nú á leiðina ok fóru þó almannaleið. Sigmundr tók til orða í liði Bjarnar: „Nú sé ek þá, ok eru komnir fyrir oss.“ Síðan sóttu þeir fast eftir þeim, ok fundusk á Hrísum upp frá Dalsbœ, milli bœjanna ok Hellu, er Narfi bjó. „Menn fara þarna,“ segir Böðvarr, „ok hvat munu þeir vilja?“ Bersi svarar: „Ekki munu þeir gott vilja, ok má vera, at vér druknim nærri landi.“ Böðvarr mælti: „Eigi skulum vér renna.“ Bersi svarar: „Eigi ætla ek þat,“ segir hann, „ok munum vér hér bíða.“ Böðvarr ok Bersi ok stýrimaðr váru fremstir; váru þeir sjau saman, en þeir Björn váru ellifu saman. Þá mælti Þorsteinn: „Förum at með ráðum. Eigi er sýnt, hvé vegnar svá búit. Þeir hafa vígi nökkut, en menn harðsnúnir, ok sœki sumir á bak þeim, — ok vertu hér Þorgrímr.“ Í því bili hljóp maðr mikill at baki þeim. Var þar ok kominn Eyjólfr Þorsteinsson. Þá mælti Böðvarr: „Höldumsk við ok hlífum oss.“ Björn var fremstr í atsókn. Þorsteinn skaut spjóti at Hávarði austmanni ok setti á hann miðjan. Þat spjót þrífr Böðvarr ok sendir þat aftr, ok hœfir Þorstein, ok varð honum at skaða. Ok í því kom Eyjólfr á bak Böðvari, ok hjó hann banahögg. Ok í því þrífr Eyjólfr til Bersa, ok rendi fótskriðu með hann ok í lið þeira,

ok bað þá Björn at ráða til. Hann hljóp at honum ok vá hann, ok mælti: „Vasklega fórtu enn, Eyjólfr.“ Hafði Bersi vegit Sigmund áðr. Þar fell Böðvarr, Bersi, Hávarðr austmaðr, ok einn af förunautum þeira ok Þorsteinn af Svarfdœlum ok Sigmundr. Þeir gera orð Narfa, at hann sœki líkin. Hann kunni þessu illa, því at hann var vinr hvárratveggju. Hann ríðr á Möðruvöllu, ok sagði Guðmundi. Hann kvað þetta mikla óhamingju orðna. En þeir Björn ok Eyjólfr gera ráð sitt. Eyjólfr kvað þat sýnt ráð at hitta Ljót, — „þó at nökkur ýfisorð fylgi, þá er þar þó traust. Mun hann mönnum ásjá veita. Mun ek hér ekki dveljask, ef þú gerir eigi svá, því at þú mátt ekki traust veita.“ Björn kvað hann letja, at manna hefndir fœri fram. Eyjólfr kvaðsk ætla, at því fastari myndi hann til trausts, sem þeim lægi meir á, — „ok er þetta eitt til.“ Þeir fara nú ok hitta Ljót, ok segja honum, at þeir hafa mannhefndir framdar eftir frændr þeira. Ljótr mælti: „Eigi er gott at eiga vánda frændr; þeir koma oss í vandkvæði; er nú ok eigi gott atgerða.“ Þeir fara at hitta Þorgrím. Ljótr mælti: „Hví tóktu við óvinum várum, Þorgrímr frændi?“ Hann svarar: „Þat eina samdi mér; þótt til lítils kœmi, þá var þat þó mitt, er ek gerða, en þat Sigmundar, sem

hann gerði, ok er því fjarri orðit, sem ek vilda at væri.“ Ljótr mælti: „Betr myndi, ef þessi ráð hefði höfð verit, en óráðlegt sýnisk mér yðr, at sitja í búum yðrum í milli Tjarnar ok Upsa. Kveð ek þat nú betr sama, at vér sém allir saman, heldr en þér séð drepnir niðr sem melrakkar í grenjum, ok mun þá þykkja koma til vár at veita yðr at málum yðrum, ok mun ek leita fyrir at vera; em ek tregr til stórvirkjanna, en þó þykkir mér illt at láta hlut minn fyrir nökkurum manni.“ Þorgrímr mælti: „Slíkt liggr nú fyrir; eða hvat skal gera af Eyjólfi, er mest er í sökum bundinn ok stórvirkjum?“ Ljótr svarar: „Hann má vera með mér fyrst, en síðan mun ek senda hann suðr á Hjalla, ok koma honum þar utan, en aðra þrjá skal senda til Hermundar Illugasonar, en tvá til Þorkels Eyjólfssonar; væri þá auðvelt um sættir at leita, ef þeir kœmisk utan. En Björn skal með mér vera, ok eitt yfir okkr ganga.“

6. Allt þetta gekk svá fram. Eyjólfr fór utan ok var í Þingmanna-liði í Englandi. Narfi var at rœðu við Guðmund, ok þótti honum því verri þessi tíðendi, sem hann frétti gerr. Þó fór hann með Narfa út á Ströndina, ok spurði þá glögt um fundinn. Guðmundr mælti: „Hafa þeir gott orð af, ok

er mikill skaði at missa þessa menn, er svá urðu vel við, en váru saklausir, ok upp ganga þeir nú Svarfdœlar, ok munu vel við una. Eða hversu varir eru þeir um sik, Björn ok Þorgrímr?“ Hann sagði: „Oft er Björn heima með fámenni, ok svá Þorgrímr.“ „Gott hefir Þorgrímr af málinu, en þó er Ljótr forstjóri þeira, eða hversu varr er hann um sik?“ segir Guðmundr. Hann sagði, at Ljótr væri varr um sik. „Eigi uni ek nú þó, at svá búit sé,“ sagði Guðmundr; „vil ek nú hafa við ráð þín, ok sœkja út í dalinn ok forvitnask, ef vér mættim ná nökkurum þeira.“ Narfi kvaðsk heimill til þess, — „em ek nú búinn. Eru mér ok kunnig öll göng ok leynivegar, en gæfuvant er til slíkra ráða.“ Guðmundr kvaðsk á mundu hætta, ok fóru þeir út í dalinn, ok námu staðar eigi alllangt frá Völlum í skógi nökkurum. Guðmundr mælti: „Hér munum vér sitja ok bíða, en þú forvitnask tíðenda af bœnum.“ Ljótr átti sauðahús skamt frá þeim. Þat var til tíðenda á bœnum, at þeir frændr váru þar komnir allir til boðs, ok höfðu þeir eigi þat vitat. Þat var vandi Ljóts at vera snemma á fótum ok sjá um verk sitt ok fénað. En þeir Guðmundr sátu í tungunni milli gilja tveggja í skóginum, ok sá, at maðr gekk frá bœnum í svörtum kyrtli, ok hafði bryntröll í

hendi. Hann ferr inn í húsit ok rekr út fét. Þá bað Guðmundr þá upp spretta, ok taka hann höndum, en bera eigi vápn á hann. Ljótr sér þat ok snýr undan, en hafði fyrir sér bryntröllit, ok hljóp í gljúfrit fram; en þar var undir fönn hörð í gilinu, ok rennir hann ofan eftir gilinu, ok sakaði hann ekki. Guðmundr mælti þá: „Þar fór hann núna" — ok skaut eftir honum spjóti ok hœfir í bryntröllit. Ljótr tók upp spjótit, ok fór heim. En Guðmundr fór í skóginn, ok mælti: „Handgóðr er Ljótr, ok er slíkum mönnum vel farit. Hann er óhlutdeilinn, en sjálfr fullhugi ok ráðkœnn. Þat eitt ráð lá honum til, er hann hafði, ok mun hann vitat hafa áðr, at fœrt var í gilit. Bíðum nú ok vitum, hverjar tiltekjur hann hefir. Látum eigi þá elta oss; þó förum vér nú helzti sviplega." — En er Ljótr kom heim, þá varðveitti hann spjótit; þat var gullrekit. En um morgininn lætr Ljótr þá frændr sjá spjót Guðmundar. Þeir spurðu, hvaðan honum kœmi spjótit. Hann svarar: „Guðmundr enn ríki sendi mér þat." Þeir spurðu hann, hverr með fœri. Ljótr kvað hann ekki öðrum at því hlíta, — „ok gerði hann þat sjálfr." Þeir kváðu hann því oflengi leynt hafa. Hann kvað eigi þat vera, — „ek vissa þat, at ek mynda yðr eigi stöðvat fá, ef þér hefðið þetta fyrri vitat, en

oss myndi þat illa sœkjask, ok ofráð vera við þá Eyfirðinga" — ok lætr Ljótr eigi þessum málum snúa áleiðis um fjörráð við sik. Ok líðr nú fram at þingi, ok var þar allfjölment. Kómu þeir Norðlendingar, Ljótr ok Guðmundr. Fór Guðmundr með vígsmálit á hendr Ljóti. Nú gengu menn um sættir at leita. Þeir Ljótr ok Skafti fundusk vinir, ok tõluðusk við, ok segir Ljótr honum allan atburðinn um viðskiftin þeira Guðmundar, — „ok ef vit megum semja mál okkur, mun ek ekki til þess taka, ok förum vit at rœða við hann." Skafti svarar: „Vel er með farit þínar hendr, ok skal ek allan hlut í eiga." „Já," sagði Ljótr, „undan snera ek þá, ok sýndisk mér eigi at bíða, hvert orð sem á léki. Nú vil ek, at þú fœrir Guðmundi spjótit." Skafti bað hann fara með sér. Ljótr kvað svá vera skyldu, — „ok má ek vel sjá hann." — Guðmundr heilsar Skafta ok mælti: „Hví sýndisk þér at veita Ljóti göngulið?" Skafti kvað svá bera til, — „ok ekki er þat til óvinfengis gert við þik, en spjót þetta vill Ljótr at þú hafir, ok kvað þik sent hafa." Guðmundr svarar: „Svá var þat þér sent, Ljótr, at ek ætlaða þat til lítilla sœmda þér." Ljótr mælti: „Síðan svá hefir snúizk, þá geri ek mér þat eigi til fjár, spjót þetta." Hann kvaðsk þat gjarna vilja, — „en sverð þetta

skaltu hafa.“ — Þat var gersemi mikil. — Þá mælti Ljótr til Guðmundar: „Þigg nú af mér sverð þetta, en send mér eigi annat spjót þess háttar, en lúkum svá málum okkrum, at þú þykkisk halda öllum sóma þínum, ok lúkum svá fjandskap okkrum.“ „Svá skal vera,“ sagði Guðmundr. — Björn var eigi á þingi, því at hann var sendr út til Grímseyjar með ráði Ljóts, ok var á laun með þeim manni, er Þrándr hét. Björn sagði honum orðsending Ljóts, at hann var þangat sendr til ásjár ok trausts um þingit, — „en hann mun lúka málum fyrir mik.“ Þrándr kvað þá fara mundu með slíku, sem verða mætti.

7. Hrólfr var heima um þingit, en á þinginu váru málin reifð. Kvaðsk Ljótr vilja bjóða utanferð manna ok fésekð virðulega, ok lögðu margir enir smæri menn verra hlut til, en hinir deildu sér góðan hlut af ok þótti þat vænst, at Ljótr næði sættum, en Guðmundr fengi sóma af. Svá kemr, at Ljótr vill at Skafti gerði af hans hendi, en Guðmundr vill sjálfr gera fyrir sína hönd. Var svá ok. Urðu þeir vel á sáttir, ok skyldi Skafti gerð upp segja, ok var þar hjá fjölmenni mikit. Skafti mælti: „Þat látum vit jafnt í þessum málum, fyrirsát fyrir Böðvari ok víg Sigmundar, Bersa víg ok Þorsteins, en fyrir kaupmannsins víg tvau hundruð silfrs, en

fyrir víg Böðvars skal gjaldask þat fé, er kom fyrir víg Þorvarðs, en níu menn skulu eigi eiga útkvæmt. Björn skal gjalda hundrað, ok vera þar með frjáls, ok gjalda tvau sumur á leið," — ok sættusk at þessu. — En Björn var í eynni með Þrándi vel haldinn. Ok einn dag um þingit fýstisk Björn at róa með Þrándi, en hann kvað þess enga þörf, — „ek vilda, at engar umsátir væri um þann mann, er Ljótr sendir mér, ok óvænna er til traustsá smáskipum, en á eynni." „Ekki mun þat saka," segir Björn; — ok reru þann dag þrír tigir skipa frá eynni, ok flest smá. Veðr var gott ok váru menn kátir, því at skipin lágu nær. Þá mælti Þrándr: „Skip ferr þar inn eftir firðinum, ok kenni ek ferju Guðmundar, eða hverir munu þar vera; eða vituð ér nökkut til, hvárt Hrólfr gípr er á þingi?" Þeir svara fiskimenninir, at hann væri heima. Þrándr mælti: „Hann mun hér kominn, ok ætlar á þinn fund, Björn, ok muntu verða kendr fyrir oss, ok munum vér illa verjask af smáskipunum, en menn eigi haldinorðir, en þeir hafa stórt skip ok fjölda manna. Búumsk þó við, at vörn verði lítil," — ok róa nú upp at eynni. Þá mæltu ferjumenninir: „Geysa þeir nú róðrinn af miðunum, ok kann vera, at þeir uggi oss." Þá mælti Hrólfr: „Sœkjum eftir þeim," — ok gera þeir svá,

ok fundusk skjótt. Þá spurði Hrólfr, hvárt Björn væri á skipinu. Þrándr svarar: „Leiddu svá getur um.“ Hrólfr mælti: „Selið hann fram ok leggið yðr eigi í hættu ok fé yðvart, því at ér hafið ekki lið. Firrið yðr vandkvæðum, ok gerið yðr ekki heimilissök á hendr yðr.“ Þrándr svarar: „Ekki áttu góðan hlut í málum manna, er þú setr þik fram fyrir höfðingja, ok má af þvílíku standa vandræði, en vilt eigi halda gerðir höfðingja, ok gerir þú í slíku sáttrof, ok kveykir svá upp með höfðingjum fullan fjandskap; kann ok vera, at þú skapir Birni slíkan hlut sem bróður hans, ok af þér hafa hlotizk þessi víg öll, eða hvat hefir þú spurt af þinginu; eru menn eigi sáttir? er þat óvandi þinn, at sættask fyrst, ok drepa menn síðan, ok eigi muntu í fyrstu hríð ná honum.“ „Vér munum ná honum,“ sagði Hrólfr, „en drepa yðr.“ Þrándr svarar: „Vilið ér fé taka?“ Hrólfr svarar: „Sjálfdœmi várt.“ Björn svarar: „Illa gefask sjálfdœmin, ok hættum heldr til, hvernig ferr.“ Þrándr svarar: „Eigi skortir oss fé, en dreng fær varla slíkan, sem þú ert.“ Björn kvað margt mundu í gerask, áðr þeir næði honum. Þrándr kvaðsk vilja lúka málunum, — „ok kemr nú til mín.“ Hrólfr mælti: „Nú þegar skaltu upp gjalda tvau hundruð silfrs fyrir Björn.“ Þrándr

svarar: „Erfið munu oss gjöldin svá þröng.“ En skipamenn halda upp gjöldum með honum, ok fóru snauðir til lands; skildi svá með þeim Þrándi ok Hrólfi. — Ljótr kom heim af þingi, ok hittusk þeir Björn, ok segir hvárr öðrum þau tíðendi, sem gerzk höfðu. Ljótr kvað Þránd eigi ámælisverðan, — „en Hrólfr sýnir skaplyndi sitt, ok verðr honum títt til gjaldanna. Nú er hœgr hjá. Vér eigum at gjalda Guðmundi tvau hundruð silfrs á leið. Nú munum vér þat greiða, en eigi annat, ef þeir Hrólfr láta þat með ósœmd laust.“ Ljótr gerði Guðmundi orð, ok kvaðsk sjá sýnan ágang í slíku, ok bað hann setja Hrólf. Hann kvað svá vera skyldu; sagði hann þeim hafa oft til óvirðingar stýrt, ok greiddi hann aftr allt fét eyjarmanna. En Ljótr skipaði fyrir sína hönd bæði við Þránd ok Guðmund, svá at hvárumtveggjum líkaði, ok þótti Valla-Ljótr enn mesti höfðingi. Ok lýkr hér viðskiftum þeira Guðmundar ens ríka, ok helt Guðmundr virðing sinni allt til dauðadags. Ok lýkr þar þessarri sögu.

# NÖFN

